# Lík-ræda,

vid

Jardarfør

Prestsins sáluga

# Arngríms Jónssonar,

haldin yfir Kistu Hanns
í Garda-kirkju á Alptanesi,
þann 5ta Sept. 1815.

af

Markúsa Magnússyni
Stiptprófasti, Prófasti í Kjalarness-Þíngi og Sóknapresti til Garda og Bessastada.

Ásamt

## Æfisøgu-Broti og Grafskrift,

af B. A.

Beitistødum, 1816.
Prentud, á kostnad Sóknapresis B. Arngrímssonar, af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfiord.



Svo hefir Þú þá, æruverdi Øldúngur! endad loksins Þína laungu vegferdar-reisu gegnum lífid; eptir fullra 78 ára dvøl á lífsleidinni, ertú nú, sem vísad hafdir mørgum veginn til sáluhjálplegs ódaudlegleika, Sjálfur í dag daudur útborinn.

En

En — hvílíkur var Madur þeßi, sem liggur hjer nú látinn? Offagt munn enginn kalla, þó eg svari spurníngu þessari med Davíds Konúngs ordum, þegar hann stód yfir grefti Abners Herhsfdíngja (2 Sam. 3, 38.): Vitid Þjer ekki, sagdi hann, ad í dag er dáinn Merkis-madur í Israel; og mjer finnst eg segi ecki ofmikid, þó eg vitni: ad einn, í mørgu tilliti, Merkis-madur sje hjer til grafar borinn; því, ef einføld, fordildar- og hræsnis-laus Gudrækni; ef ad áseilnis- og sldúngis ágyrndarlaust frómlyndi í sllum vidskiptum; ef samvitsku-vidqvæmasta rádvendni, sem ecki mátti vamm sitt vita í enu minnsta, sem aldrei gjørdi viljandi órett, nje breytti sdruvísi enn eptir bestu samvitsku sannfæríngu; ef nockurr, þessum dygdum prýddur, má Merkis-madur heita á Sld vorri, því framar, sem dygdir þessar eru, því midur! skjaldgæfari, má þeßi framlidni Gudsmadur þann ordstír med rettu med sjer bera í grsfina: ad Hann hvílíkur Merkis-madur var.

Jeg vitna þad nú, yfir moldum Háns, af egin þeckíngu, og eptir samvitsku minni: rádvandari, frómlyndari Dánumann, í ordanna eginlegri merkingu, hefir eg engann þeckt. Hitt var mjer eins kunnugt, hvørsu alúdlega og med sívakandi vidqvæmri samvitskusemi Hann, eptir gáfum, vandadi Prests-embætti sitt, medan Hann þjónadi því, og hvad umhyggjusamlega Hann, eptir megni, sorgadi fyrir

sinna



finna Safnaða andlegu og líkamlegu heillum, má Hann þá ecki, einnig í því tilliti, Merkis-maður heita? Hvørsu forsiønduglegá Hann sá fyri sínu húsi, sem besti Búhøldur, þannig, að Hann í fyrstu fátækur, varð ødrum þurftugum ætíð hjálpandi; má þvílíkann ecki Merkis-mann kalla? Hvørsu Hann skynsamlega og fødurlega, ásamt sinni dygdaríku, á undan Honum kolludu, heidvyrdugu Konu, sorgaði fyri Barna sinna uppeldi, að þaug verða skyldu það, þaug vorðin eru, Fødurlandinu til nytsemdar, Honum til verdugrar Æruminníngar og svo mørgum til góðs; hvað má vor Framlidni ecki, fyri þessa skuld, Merkis-maður heita, bæði í Guðs Kristni og borgaralegu fjelagi?

Nú á Hans síðustu árum, þá eg naut Hans daglegu ánægjusømu umgengnis, má mitt vitni um það gylda, sem enginn, er Manninn þeckti, reka mun: að eg ecki viþi mann tryggari, stødugri, jafnlyndari, góðglaðari í allri umgengni, enn Hann var; vildi øllum vel, og eptir það Hann hafði minni efni og tækifæri til að verka Sjálfur það gott, er Hann óskaði, siundlaði Hann þó ætíð til þess, hvar færi gafst, ecki einúngis með því, að gefa upphvatníngar og skynsøm ráð, heldur og lagði sig sjálfur í atorkusamt erviði, opt framyfir krapta, aðstoðarlausri Eckju hjer, og fødurlausum børnum, sem nú ecki síst sakna mega Hans, til mikillar hjálpar.

Og



Og svo jeg má sakna Þín, sem Merkis-manns, minn margra ára trúfasti Ástvinur! Þín, sem eg viþi, að frá fyrri árum elskaði mig, eins og Þú viþir að kiærleiki minn og minna burtsofnuðu, sem Þú svo opt minntist, var fölskvalaus til Þín. Fyrirgefið, minir Hærstvyrðu! að eg gjet þessa við Lík-kistu þessa Manns, hvilikann Merkis-mann eg reyndi Hann við mig. Eptir kroptum leitaðist Hann við, ætíð fús og reiðubúinn, að ljetta með mjer undir Embættisverk, sinnaði, sjólaði og erviðaði sjálfur, jafnvel yfir krapta fram, til míns heimilis gagns með sóma og alúð, eins og verið hefði Hans egið. Svo sem Hann í búskap sjeðari og æfðari, lagði ætíð það til, sem best hentaði; hvílíka orsök hefi eg þá ecki til að sakna Hans, sem Merkis-manns, er eg mat ecki einúngis, sem míns heimilis prýði, heldur einnig, í mörgu-tilliti, heimilis styttu. Og þó samfagna eg Þjer, ásamt Þínum áður burtkölluðu Ástvinum, sem Þú ert nú kominn til, með umskiptin, sem Þú hefir fengið. Jeg viþi Þú varst þreyttur vorðinn af Þinni laungu vegferðar reisu! Þú óskaðir að komast sem fyrst til hvíldar í höndum Drottins! Þig lángaði heim til Þinna á undan förnu elskuðu; Þú ert þá, Lángvinur minn! kominn þángað, sem Þú óskaðir Þjer, en Þitt mætá mannorð, og menjar ydna Þinna, vara hjer eptir með oss; já! hvetjandi endurminníng að fylgja Þínu dygða dæmi; því—eptir lifir, mannorð mætt, þó maðurinn deyi. Hið sanna verð verka Þinna fylgir Þjer, þeirra nhtur

Þú



Þú í enni nú allt endurgjaldandi eilífd, þar sær Þíns alkenda frómlynda rádvendni fyrirheitin nádar umbun! þar sær Þú, elskadi Astvinur! ad uppskiera þ... sem Þú, af hreinskilinni elsku til Guds, til ens rètta, góda og nytsama, gjørdir gott í þeim tigna tilgángi: ad verda sem fleirstum, Þú gatst, nytsamur, medan Þú lifdir á jørdunni.

Saddur af lífdøgum, í fagnadarsælli heimkomu til Þinna á undan förnu Ástvina, gredur nú Þinn ódaudlegi Andi jörd þessa, og eptirlifandi Vini og Vandamenn, og med Honum undirtøkum vjer nú, undir eins og vjer hefjum Lík Þitt til Grafar, sýngjandi: Gladur hjedan vil eg venda, etc.

  

## Æfisøgu-Brot.

Presturinn sálugi Arngrímur Jónsson, var fæddur ad Sídumúla í Hvítársídu, þann 2ann Aug. 1737, af gódu Fólki og Merkismønnum í bádar ættir; þar uppólst hann med Foreldrum sínum 8 ár, og hjá Fedur sínum Eckju-



jumanni á Háafelli, í somu sveit, 7 ár, uns þeßi deydi. Eptir þad héldt Arngrímur þar vid bú í 5 ár, til tvítugs alduis, þá hann af staklegri lyst til Bóknáms, gaf sig allann vid þvi, sókti um, og féck leyfi, ad takast mætti í opinberann Skóla, þó svo gamall væri. Hann útskrifadist med besta Sidferdis og Lærdóms Vitnisburdi árid 1765; vígdist Kapellan til Hvanneyrar og Bæjar Þínga 1766; giptist sama ár, Sómameyu: Ragnhildi Bjarnadóttur; bjó hann á Prestsetrinu Hesti, átti þar 2 Born, Málfridi 1767, og Bjarna 1768. Þadan flæktist hann braudlaus 1769 um vorid, vestur ad Miklaholti, hvar honum fæddist sonur, Jón. Ari sídar féck hann Kancellie Rekommendation og Kapellans kollun í Mela og Leirár Sóknum, hvar hann þjónadi til þeß hann odladist Kallsbréf fyri braudi því, þann 22ann Aug. 1771. Á Melum átti hann 2 dætur, Ingibjorgu 1772, og Gudrúnu 1774. Hann kom bornum sínum ollum til menníngar; byggdi ad nyu 2 Stad-

arins



arins Hjáleigur, Melaleyti 1778, og Saudhús 1779, en Mela-kirkju vandlega 1772, og sídan øll Stadarhús. Hann héldt Mela til þess í Fardøgum 1796, 25 ár, flutti sig þá á Hjáleiguna Melaleyti, og vard þar Eckjumadur 1799, þadan austur ad Barkarstødum í Fljótshlíd 1800; giptist 1801 Mad. Þrúdi Sigurdardóttur, bjó á Alptanesi í Gullbríngu Sýslu til 1810, og vard sóttdaudur í róssamri elli ad Gørdum þar, þann 24da Aug. 1815, á nýbyrjudu 79da aldurs-ári. Hann var Starfs- og Reglu-madur mesti í bússtjórn og Embætti, tryggur og fastlyndur, hreinn og alvarlegur ad skapferdi; vifs og varfærinn í vidskiptum og umgengni; lagdi manna best grundvøll hjá úngum til sidgædis, menta og mønnunar. Sem Kapellan og Sóknaprestur skírdi hann 245 børn, en fermdi 145, ektavígdi 36 pør, og saung til moldar 237 manneskjur í Mela og Leirár Sóknum.



## *GRAFSKRIFT.*

Hér. er. lagid.
Og til. leidis. búid.
Af æfi-ſtarfa
Og önnum þrotid.
Lík.
Hyggins. og. Hærum-krynds.
Heidrads. Auldúngs.
Preſtsins.
ARNGRIMS. JONSSONAR.
Sem. fædddur. var. d. II. Aug. MDCCXXXVII.
Preſtvígdur. d. VIII Maji. MDCCLXVI.
Giptiſt. ſama. ár.
Merkis-qvendi.
RAGNHILDI. BJARNADOTTUR.
Vard. med Henni.
V. Barna Fadir.
Giptiſt. aptur. MDCCCI.
Og deydi.
Dag. XXIV. Aug. MDCCCXV.

---

Dugnadar, Hans. dæmi.
Og. dygda-ſpor. ſanna.
Merkis-manninn.
Marghæfann. heimi.
Abli. búinn.
Og. andar. hreyſti.
Ad. ydni. og. atorku.
Oþreytandi.

Sanngudrækinn. var. Hann.
Og. ad. ſidum. varkárr.
Skyldurækinn. réttſynn.
Og. reglufaſtur.
Frædari. gódur.
Fadir. raunbeſti.
Guds-vinur. í. gódri. von.
Géck. þar. heimi. af.

---

ÞVÍLÍKUM. MUN. AD. SÍDUSTU. VEL. VEGNA.

*B. A.*

